WIKIPEDIA

# Maltneska

**Maltneska** (*Malti*) er þjóðartungumál Möltu og opinbert tungumál Evrópusambandsins. Hún er töluð í Möltu, Kanada, Ástralíu, Bandaríkjunum, Bretlandi, Gíbraltar. Um það bil 522.000 manns tala maltnesku.[1] Maltneska er semískt mál og eina málið í þeirri ætt sem er viðurkennt innan Evrópusambandsins. Maltneska á uppruna sinn í mállýsku arabísku sem var töluð á Sikiley. Því heyrir maltneska til arabískra mála og telst sérstakt tilbrigði sem hefur þróast á sjálfstæðan hátt á síðustu 800 árum.

Maltneska hefur orðið fyrir miklum áhrifum frá ítölsku og öðrum indóevrópskum málum. Um það bil helmingur orðaforðans á rætur sínar að rekja til sikileysku og ítölsku, og talið er að tökuorð úr ensku svari til 6% til 20% af orðaforðanum. Upprunalegi arabíski stofninn svarar til um 30% orðaforðans og nær yfir grundvallarorð og smáorð.

Maltneska hefur alltaf verið skrifuð með latneska stafrófinu og er einstætt meðal semískra mála að því leyti. Elsti textinn á maltnesku er frá miðöldum.

| Maltneska<br>*Malti* | |
|---|---|
| **Málsvæði** | Malta |
| **Heimshluti** | Miðjarðarhafið |
| **Fjöldi málhafa** | 522.000 |
| **Ætt** | Afró-asísk<br>Semísk<br>Miðsemísk<br>Arabísk<br>**maltneska** |
| **Skrifletur** | Latneskt stafróf |
| **Opinber staða** | |
| **Opinbert tungumál** | Malta |
| **Tungumálakóðar** | |
| **ISO 639-1** | mt |
| **ISO 639-2** | mlt |

**ATH:** Þessi grein gæti innihaldið hljóðfræðitákn úr alþjóðlega hljóðstafrófinu í Unicode.

## Heimild


1. Maltese - Ethnologue (http://www.ethnologue.com/show_language.asp?code=mlt)




*Þessi tungumálagrein er stubbur. Þú getur hjálpað til með því að bæta við greinina (https://is.wikipedia.org/w/index.php?title=Maltneska&veaction=edit).*